1829

# Byggingar-Bref.

---

Eg undirskrifadur gjøri hér med kunnugt:

Ad eg byggt hefi og hér med byggi fasteign liggjandi i Hreppi og Sýslu, Hundrud áln. ad dýrleika, til ábúdar og allra løglegra leigulida nota frá nærstkomandi Fardøgum med eptirfylgjandi

## Skilmálum:

1.

Skal hann halda jordunni vel vid ad húsum, túnum, engjum og sérhverju, einnig hennar innstædu kúgyldum á eginn kostnad, án allrar uppbótar af Landsdrottni, en svari henni út í fullgyldu standi, en annars med fullgyldu álagi.

2.

Skal hann kappkosta ad betra tún sitt, verja þad og rækta og øll slægjulønd jardarinnar, sem best hann má, færa á tún og til þess útgrædslu allann áburd, eins sauda-tad, en engu af honum frá því sóa til brennslu, heldur í þess stad nota sér løglega móskurd — hvar mór finnst eda fæst.— fella mógrafir vandlega saman, svo sképnum hættulausar verdi, en engann klíning úr mykju gjøra; stúngu eda ristu má hann ecki leyfa sér né ødrum í túni eda slægjulandi.

3.

Eptir konúnglegu Logmáli frá 13da Maji 1776, ber honum ad hlada log-gard um tún sitt, uns fullgjordur er og honum sídan vel vidhalda, nefnilega: hvar grjót til þess fæst, árlega ad hlada eda láta hlada sex fadma lángann grjótgard, fyri sig og eins mikid fyri hvern verkfærann karlmann, sem hann heldur. Skal steingardurinn vera fullar tvær álnir danskar á hæd, en á þyckt ad nedan 2 alnir, en 3 qvartil ad ofan, vel og vandlega hladinn; en sé ecki stein ad fá, hladi hann 8 fadma lángann torfgard, 2½ al. á þyckt ad nedan, en 3 qvartil ad ofan fyri sig og eins lángann fyri hvern sinn verkfærann karlmann, en fullsiginn sé hann 9 qvartil donsk á hæd. Hvar sen banna girdíngar, gjorist gripheldir skurdir á þeim plátzum, sem bædi fái veitt vatni frá túni og varid þad til fullnustu fyri gripa ágángi. Renni skridu-grjót á tún eda engi, eda aurledja vid skriduføll eda vatnavexti, skal hann vandlega burthreinsa þad grjót, sand og aur, ef møgulegt vyrdist. Ecki má hann lída tún sitt ridid átolulaust, en gjøra skal hann veg godann og vel færann almenníngi heim ad bæ sínum, eda gégnum þad, hvar þjódvegur þetta krefur.

4.

Alls eckert má hann af ábýli sínu ljá eda afbyggja ødrum, nema med leyfi Húsbónda síns, og eckert húsfólk án þessa iñtaka, engañ lausamañ eda passaleysíng hýsa 3 nóttum lengur, undir ábúdar topun.

5.

Skal hann svara løgbodinni tíund af jordunni og innstædu, halda uppi løgskilum, bodburdi, þurfamanna- og fánga flutníngi, vegabótum, fjallskilum, grenjaleitum og kosti til sérhverju skyldu útsvari og verkum, er nú gyldandi eda komandi løg af jordu þessari krefja um hans ábúdar tíd.

6.

Láti hann eckert undan jørdunni gánga af landi hennar, itoknum eda hlunnindum, né leyfislaust nota af óvidkomendum, svo sem;

en tilkynni Húsbónda sínum, ef nockurr hans leiguland áseilist.

7.

Taki hann fódur af Húsbónda sínum fyrstum manna, þegar hann vill og gétur án síns baga, fyrir sanngjarnt medlag.

8.

Askilst hérmed, ad ábúandi árlega gjøri skip eda bát út og viðhaldi því til helfminga móti Húsbónda sínum, fái fyri þad annann skipshlut og rádi til sín alla háseta sjálfur, ellegar ad minnsta kosti rói á vegum hans þar, sem hann vidþarf.

9.

I árlega landskuld gjaldi hann á landsvísu heim til Húsbónda síns i hverjum Fardøgum ellegar hvar hann svo fyrisegir, í næsta høndlunarstad, á þar tilnefndann stad

Med jørdunni fær hann á leigu málnytu kúgyldi, eptir hver hann gjaldi fjórdúnga af godu, hreinu og velverkudu smjøri fyri veturnætur heim til Húsbónda síns.

Hann sýni Húsbónda sínum løgskipada hlýdni, hollustu og velvild, hvarámót þessi verndar hinum þessa ábúdar-skilmála og allann hann rétt, er af þessari jardar-byggingu løglega fljóta má til hans, sem landseta. Þó honum nú, med søgdum skilmálum, byggist jørdin fyrst um sinn einúngis árlángt, hvers vegna hann innan sérhverra Veturnátta hafi sagt henni lausri eda tekid hana heima, má hann samt, einúngis á medan hann heldur þessa skilmála vel, vænta vid sømu ad búa framvegis, nema Húsbóndinn sjálfur hennar vidþurfi sér til ábúdar, en séu þeir rofnir, ad honum verdi þá frá jørdunni útbyggt og hann ákjærdur um skilmála-rof.

Til stadfestu er mitt nafn og signet

Framanskrifada skilmála undirgengst ad halda

Vidstaddir vóru